LANDSBÓKASAFN



# Útskýring sendibréfsins til safnadarins í Cólossum.

Af útgéfaranum.

Sendibréf Postulans Pauls til þess christna safnadar í Cólossaborg er, eptir sem lærdir menn béta nærst komist, skrifad hérum 64 árum, eptir Christi fædíngu, þegar Postulinn var, fyrir Evangelii skuld, í fyrra sinni fángi í Róm, undir keisara Neróne, er sjest af því, ad Timotheus var hjá honum, þegar þetta bréf var skrifad, líka svo þeir Marcus og Lúcas, Je'ú lífssögu ritarar, frá hverjum ásamt ødrum hann kvedju ber søfnudinum í Cólossum; en þessir menn vóru eingvir hjá Postulanum í hans ísdara fángelsi. Hafdi hann nú allareidu á fimta ár fángi verid, er hann ritadi bréf þetta. Stadurinn Cólossæ lá í Phrygia hinni stóru í Asia, og þar ecki lángt frá Laodíceea og Hieropolis; og er mælt, ad stadir þessir hafi, ei laungu eptir þad þeir feingid høfdu bréf þetta, eydilagst af jardskiálfta. Ad Postulinn ei siálfur hafi þennan søfnud í fyrstu stiptad, er audheyrdt af sendibréfinu, (1, 2), og er af því heldst ad ráda, ad Epaphras nockur — einn af Postulans vinum og fylgjurum — hafi þar fyrstur christna trú bodad.

Adalaugnamid bréfs þessa er, ad styrkja söfnudinn í trúnni á Drottinn Jesúm, gégn villu-lærendum, er þar uppkomid höfdu, og máské borid þad fyrir, ad Epaphras ei væri einu þeirra regluligu Postula, og þessvegna kénníngu hans minna ad marka, enn ella.

Þessir villumenn sýnast hafa verid Gydíngar nockrir, christnir ad nafni, sem ráda má af því ad þeir vildu telja þad christna fólk í stadnum — sem allt hafdi ádur heidingjar verid — til ad taka upp Móysis lögmáls sidu, hverja Gydíngar, þó christni tæki, voru misg tregir af ad leggja, og reyndu því til ad birla þessum söfnudi inn, ad trúin á Jesúm nægdi ecki til sáluhjálpar, menn þyrftu líka ad láta umskérast, og ödrum Levi-tiskum lagasetníngum hlýda. En ad kénnendur þessir hafi þar ad auki verid út af þeim trúar-meiníngа flokki medal Gydínga, sem Essenar nefn-dust, sjest af því, ad þeir innræta vildu hjá fól-kinu, þær raungu meiníngar, er flockur sá, út úr þeirri Platonisku austurheims speki, hafdi sam-anblandad Gydíngatrúnni; til dæmis: ad dýrdka einglana, undir því audmýktar skini, ad þar mennirnir svo syndugir væru, mætti þeir ecki sjálfir sínar bænir fyrir Gud frambera, og yrdu því ad fá einglana, til ad gánga milli sín og hans; spor til þessa villudóms finst í Tobiasar bók, hvar Raphael eingill kvadst hafa borid To-biasar bænir fram fyrir Gud. Þar nærst á

ýmsan hátt ad pínta líkama sinn, til þess — hét það — ad vondar girndir skyldu því ídur í hønum upptendrast, hverra rót þeir søgdu ad øll byggi í líkamanum, en ecki í sálunni. Annars er um þennan Essena flock aldrei berliga gétid í lífssøgu Jesú, heldur einasta um Saducæa og Pharisæa; því þar hinir lifdu miøg kyrlátu líferni, og komu ecki opt á manna mót, séck Frelsarinn sialdan tækifæri vid þá ad tala. Líffernis máti þeirra var miøg strángur, og þeir plágudu siálfa sig frekliga, med føstum og ødru hardlífi. Egtaskap høfnudu þeir, en uppólu annara børn, til ad fylla flock sinn; þiónustufólk høfdu þeir ecki, heldur þénudu hver ødrum. Ríkdóm forsmádu þeir, og høfdu eignir sameiginligar. Þeir voru mestu hatarar alls munadarlífis, og heldu bindindi fyrir ædstu dygd. Alldrei søru þeir eid, en heldu þó ord sín rett sem eidfest væru. Undir píslum og mótgángi voru þeir stakliga þolugir. Nú þó sumt af þessu hiá þeim bæri svip sannra dygda, spillti það øllum kostunum, ad þeir settu traust á þennan lifnad sinn, og tøldu sér hann til réttlætis fyrir Gudi. Þó nú ýmsir af flocki þessum tæku skýrn og christni af Postulum Drottins, voru þeir samt svo fastheldnir á meiníngum sínum og lifnadarhætti, ad þeir álitu Christindómsins ástædur ónógar til sáluhiálpar, því heldur, sem það sýndist, sem þeir, í sumu, væru vandari ad sidum manna, enn

sjálfir Postularnir. Þetta leitudust þeir og vid ad predika ödrum, einkum þeim sem frá heidni höldu til christinnar trúar snúist, eins og söfnu durinn í Colossum var, og þegar hér á ofan bættist sú heimskuliga einglad ýrdkan, vard þessi villudómur þeim mun skadligri, sem hann gjördi framar mestu nidrun, svo vel persónu christs sem Fridþægíngu. Sökum þessa finnur Postulinn Paull stærstu orsök ad vandlæta hér á móti, og vara söfnudinn í Cólossum vid þessari villutrú. Fær hann því í þessu sendibréfi besta tækifæri, ad bera einhvörn hinn háleidligasta og ljósasta vitnisburd um Frelsarans Guddóm og Fridþægíngu, til ad sannfæra söfnudinn um, ad hann alleinn (en Einglarnir ecki) væri persóna sú, hvörja menn-irnir ættu fyrir Medalgángara ad hafa, milli sín og Guds; og ad Fridþægíng hans væri þad einasta fullgilda medal til ad ödlast Guds nád og hylli. En eingu ad sídur bæri þó christnum mönnum ad stunda sem best gudligt lífnadarlag, hönum til æru og af elsku til hans, en ecki sjálf-um sér til afhalds nockurs edur gildis fyrir Gudi. Allt þetta leidir nú Postulinn söfnudinum í Cól-osaborg fyrir sjónir í þessu sendibréfi, hvörs efnis og innihalds nidurradan finst ad vera, sem fylgir:

### 1sti Höfudpartur,
### edur sem Ingángur Bréfsins (frá 1 Cap. 1 versi til 14) innihéldur.

a. Heilsun Postulans til safnadarins (1, 1—2).

b. Packlæti til Guds, fyrir safnadarins góda ástand í christindóminum (1, 3—8)

c. Fyrirbeidslu, ad hann standi stödugur og eflist í því uppbyrjada góda 1, 9—12).

d. Stutta útmálun grundvallar og gjæda christindómsins (1, 13—14).

## 2 Höfudpartur,

Um Bréfsins eiginliga Efni (frá 1, 15 til 2, 17).

A. Ad sýna, á hvörsu óyggjanligum grundvelli sú christna trú bygd er (1, 15—20).

a. Med einum bivsrædum og hátíðligum vitnisburdi um Jesú eilífa Guddóm (1, 15—22).

b. Med jafnfullkomnum vitnisburdi um Fridþægínguna fyrir hans dauda (1, 20—22).

c. Med hvörjum móti menn hafi not hennar (1, 23). Hér út af tekur Postulinn sér tilefni ad tala um:

d. Síns postulliga Embættis kjör, náttúru og augnamid (1, 24—29).

e. Ad hann beri mikla áhyggju fyrir safnadarins stadfesti og styrkíngu í trúnni (2, 1—2).

B. Ad tala um þá í söfnudinum uppkomnu villulærdóma (2, 4—23) med því:

a. Ad vara söfnudinn alvarliga vid þeim, og áminna hann til ad standa stödigur (2, 4—7).

b. Ad tiltaka í hvörju þessir villulærdómar falnir séu, og sanna þeirra ógildi (2, 8—23) t. d.

aa. Eingladýrdkunarinnar; þar Jesús sé öllum Einglum ædri (2, 9, 10, 15) og til hennar séu eingar ástædur (2, 18).

bb Levitiska lögmáls seiníngarma, þar christur hafi þær med sínum dauda afmád (2, 11—14 16 17).

cc Sjálfspintíngánna, sem bædi séu grundvall. arlausar (2. 18 20 21) og óvidurkvæmi. ligar (2, 23).

## 3ji Höfudpartur
innihelldur áminníngar til gudligs sinnis. og lifnadar. lags (3, 4, 1—5).

A. Til safnadarins yfir höfud (3, 17) áminn. andi ad menn.

a. hafa skuli himneskt sinnislag, þar Jesús þeirra medalgángari sé á himnum (3, 1—4).

b. dempi saurugar girndir, og afleggi ógudligt athæfi til orda og verka (3, 5—9).

c. ástundi þar á móti gudligt lífferni, og láti þad áfannast í innbyrdis kjærleika (3, 10—15).

d. ræki Evangelí lærdóm og gjöri allt í Jesú nafni 3, 16—17).

B. Til vissra stietta út af fyrir sig (3, 18—26) til:

a. Egtahjónanna hvörs um sig (3, 18—19).

b. Barna og Foreldra (3, 20—21).

c. Þjónustufólks og Húsbænda (3, 22—26).

C. Aptur til allra yfir höfud (4, 1—5).

a. Rádleggíng til ad vidhalda gudligu sinni (4, 1).
b. Ofk til safnadarins um fyrirbeidslu (4, 2—3).
c. Hvørsu umgángast skuli, þá sem ecki eru af søfnudinum (4, 4—5).

## 4di Høfudpartur,
### edur nidurlag bréffins (4, 6—17) í hvørju Postulinn.

a. Seigist senda vissa menn til safnadarins (4, 6—8).
b. Ber hønum kvedju frá ýmsum i Róm (4, 9—13).
c. Bidur ad heilsa ýmsum (4, 14).
d. Aminnir ad þetta bréf sé og svo lesid søfnudinum í Laodicea (4, 15).
e. Gjørir ord Archippo (4, 16).
f. Kvedur søfnudinn og undirskrifar bréfid (4, 17).

Til þess nú, þessa dýrmæta postulliga sendibréfs efni, gjæti ordid hinum einfaldari lesendum því skiljanligra, fylgir hér eptir nockurskonar útskýrandi þýdíng þess, løgud eptir þeim anda, sem drottnar svovel í því sjálfu sér í lagi, sem øllum Postulans skrifum, já heila Nýa Testamentinu yfir høfud. Þvílíkra þydinga máti er, ecki ad fylgja svo ordum adalritsins, sem meiníngu þess og augnamidi. Þessvegna brúkar madur bædi fleiri og ønnur ord enn Høfundurinn, til ad gjøra

meiníngu hans ødrum sem ljósasta og áheyrilig asta; þó með allri þeirri audmýkt og hreinskilni, er útskýríng þvílíks rits, sem heiløg Ritning er, krefur og heimtar. Er því á milli Utskýríngar (Paraphraseos) og Utleggíngar (Versionis) sá mikli mismunúr, að hin síðari hlýtur opt að flytia þær dimmu og figúrulligu málsgreinir frumritsins með sér á sitt túngumál, en útskýríngin er fríordari og leitast við að flytja meiníngu þeirra, en ei sjálfar þær.

Nú þar sem þeir einstøku stadir finnast í þessu, svovel sem ødrum Postulans Pauls bréfum, sem ærið þúngskildir eru (2 Pet. 3, 16) svo stend eg einganveiginn á því, að þessi útskýríng hafi hvervetna aldeilis hitt meiníngu þeirra, en vildi hún findist þó svo løgud, að hún hjá øllum frómum lesendum eflt géti elsku Hans og heiðrun, hvørs Guddóm og Friðþægíngu Postulinn leggur hér svo ótvíræðt fyrir grundvøll þess sanna og sáluhjálpliga Christindóms. Það veiti hann, sem er Gud yfir øllum hlutum blessaður að eilífu! Amen!

# Fyrsti Hofudpartur Bréfsins
## edur sem Inngángur þess.

(1 vers). Eg Paull þénari Jesú Christs, útsendur af bønum til að boða hans náðarlærdóm, hvør eð embætti þetta hefi, eptir Guds vilja á

hendur tekist, og Timotheus minn andligur bródir og hiálparmadur; (2 v) vid heilsum hérmed öllum þeim christnu, sem í Colossaborg búa, öllum sem þar eru vorir sannir brædur í trúnni á Jesúm; og vér óskum ydur af hjarta, ad nád og hylli lifanda Guds, samt þar af flióťandi fridur og farsæld, verdi allra ydar hlutskipti; sá, ecki ein úngis óskum vér ydur nádar; og fridar Guds vors himneska Födurs, heldur sömuleidis nádar og fridar hans eingétins sonar, vors Drottins og Frelsara Jesú Christs; þar beggja nád og miskun er ein og hin sama, og einginn sá gétur hast Födursins nád, sem ecki hefur sonarins, og einginn sá nád sonarins, sem ecki hefir undireins Födursins. Þessa óskum vér ydur af hjarta njótandi verda eilífliga!

(3). Elskuligu brædur í Drottni! sannarliga géfid þér oss merkiligt tilefni fagnadar og þacklætis fyrir Gudi og Födur Drottins vors Jesú Christs, midt í því vér framberum fyrir hann bænir vorar ydar vegna. (4). Því þar sem vér fregnad höfum af ydar fölskalausu trú á Drottinn Jesúm, og af þeim kiærleika, sem þér berid, ad sönnu yfir höfud, til allra christinna manna, af hvörri þjód og ættum sem vera kunna, en þó sérílagi audsýnid hann vid þá naudstöddu þeirra á medal, þá fremjum vér bænir vorar til Guds fyrir ydur, ecki med andvörpum, heldur innilig-asta þacklæti og lofgjörd. (5). Já, vér þöckum

Gudi fyrir þá ómetanligu sælu, hvorja þér, vegna ydar trúar á Christ, í vændum eigid í Himnaríki, um hvörja ydur allareidu kunngjördt er í lærdómi þess sanna og sáluhjálpliga Evangelí, sem ydur hefur bodad verid. (6). Því Gudi sén þess þackir, ad þetta Evangelíum, þessi náðarlærdómur, er og svo medal ydar predikadur, svo vel sem í öllu Rómaveldi, og þad jafnvel í þeim stödum, hvört einginn af Jesú Postulum hefur í eigin persónu komid. Og þessi lædómur hefir hvörgi ávaxtarlaus ordid, heldur hefir þetta góda sædi allstadar blómgast, og færdt Gudi þoknanligan ávöxt fyrir kjærleika og gudligan lifnad þeirra sem þad medtekid hafa. Og þetta sama hefur stödugliga sig í ljósi latid medal ydar, eins og þad sýndi sig strags í öndverdu, þegar þér heyrdud þennan Guds nádarlærdóm, og medtókud hann aldeiles hreinan og ómeingadan. (7). Því svoleidis hefur Epaphras, hvörn þér nú hafid til mín sendt, og sem er sá fyrsti Christindóms bodari hjá ydur, kéndt ydur hann; hvör ad er vor elskuverdur medþjónari í hans útbreidslu, og hvörjum eg ber þann vitnisburd, ad svo sem hann er trúlyndur Christs þénari, í því ad hafa bodad ydur hans Evangelíum alldeilis rétt, og samhljóðandi, því vér sjálfir Postular Drottins kénnum þad, svo er hann þad líka í því, ad audsýna mér, í ydar stad, og eptir ydar rádstöfun allskonar christiliga þénustusemi, hér í mínu

fángelsi. (8). Þessi sami Epaphras hefir og skýrdt oss frá, hvorsu hjartanliga þér elskid oss, jafnvel þó þér aldrei hafid oss persónuliga sjena; og þessi ydar kjærleiki til vor, hefir aptur uppvakid vorn kjærleika til ydar.

(9). En allt frá þeim tíma vér þetta af ydur fregna feingum, höfum vér ecki hætt ad bidja Gud af öllu hjarta fyrir ydur, ad þér komast mættud til sem fullkomnastar þeckíngar, um nádarvilja Guds í Evangelió, jafnvel vaxandi sara í þessum himneska vísdómi, til ad þeckja, sem greiniligast, hans réttu rökfemdir, meiníngu og augnamid. (10). Þó bidjum vér ecki einúngis þess, ad þér í sjálfri þeckíngu sannleikans þróast mættud, heldur og svo líka, ad þér hegdid ydur sdoleidis fyrir augliti Guds, sem þessari þeckíngu sambýdur, svo lifnadur ydar verdi Gudi sem þocknanligastur. (11). Uppá þad þér ávaxtarsamir verdid í allskonar gódum verkum, undir eins og þér framsörum takid í ad þeckja Gud og hans nád í Christo réttiliga. Já hjartanliga bidjum vér þess, ad þér, fyrir Guds dýrdarsamligan mátt, verdid kroptugliga styrktir til ad afbera, stödugri þolinmædi og gédmildi vid ydar óvini, jafnvel med gladværu sinnislagi, allt þad mótlæti og ofsóknir, sem þér, fyrir Evangelí sakir, lída hljótid; (12) og loksins, ad þessi þecking Gudsnádar í Christo, uppfylli ydur med hjartanligasta þacklæti til hans, fyrir þad hann hefir

gjørdt ydur, sem þó ádur vorud heidíngjar, hæfa, svovel sem oss Gydínga, til ad verda hluttakendur þeirrar arfleifdar, sem sjálfum þeim heilögu Guds mønnum í gamla Testamentinu, heitin var, í því falinni, ad fá ad ødlast ljóssfkjæra þeckíngu lifanda Guds og njóta hans miskunar í Christo Jesú um tíma og eilífd. (13). Því þóvér Gydíngar værum, søkum fyrirheitanna, ad vísu nockru nær, enn þér heidíngjar, til ad njóta þessara gjæda, sem Fadir Drottins vors Jesú Christs heiminum í sínum syni veitt hefir, samt má þad álítast svo, ad ecki værud þér einir, ádurenn christilig trúarbrøgd bodudust ydur, í ríki myrkranna, vegna þeirrar vantrúar, hjátrúar og gudlausa lifnadar, sem hjá ydur, svo sem heidíngjum, drotnadi, heldur ogsvo máttum vér, Gydíngar sjálfir, á viskan hátt, álítast ad vera þad, þar þessi hin sømu myrkur láu, í mørgu tilliti, yfir oss sem ydur, fyrir utan þad sem vor Guds dyrdkan var, ádur enn christur kom, ei ad reikna nema lítil skóma, hjá þeirri byrtu sem Evangelíum innleidt hefir; hvørs vegna vér eigum þá fyrir Christni bodid Gudi einsmikid ad þacka, sem þér heidíngjar, þar hann, med því, hefir flutt oss alla jafnt útúr myrkrunum inní ljósid, og gjørdt oss ad undirsátum síns sonar, í hans evangeliska ljóss ríki; hvørn sinn son hann, af sínum kjærleika til vor, gaf oss til Endurlausnara. (14). En þá endurlausn framkvæmdi

hans sonur einúngis med sinni blódugu pínu og dauda; med hverju hann kom því til vegar, ad vér, sem á hann trúum gétum odlast fyrirgéfníngu synda vorra, hjá Gudi.

## Annar Hofudpartur,
### sem hondlar um bréfsins eiginliga efni.

(15). Nú þar sem allt á því ríður, ad þér þeckid þennan Guds son — þenann konúng í ljóssins ríki — réttiliga, svo þér ecki af neinum villulærdómi látid ydur afvegaleida, þá skulud þér vita þad og trúa því: ad þessi Guds sonur Jesus Christur er, í tilliti opinberunar síns Gudsdóms í mannligu holdi, sú einasta fullkomna eptirmind þess ósýniliga Guds, eins og hann siálfur sagdi vid Lærisvein sinn Philippum Joh. 14, 9: "hvor han sier mig, sá sier Fodurinn". En þarfyrir utan er hann líka svo, í tilliti síns guddómliga uppruna, svo sem Guds frumgétinn sonur, yfirherra allra skapadra sképna; því þar sem hann er fæddur af Gudi, en ei skapadur, eptir því sem Fadirinn seigir siálfur í hinum odrum Davids sálmi: Þú ert minn sonur í dag ól eg þig; þá er beggja bædi Fodurs og sonar náttúra og Guddómur einn og hinn sami; (16) sem sjest af því, ad þessi Guds sonur hefir þann þeckjanligasta guddómsins eiginligleika — þad skapanda almætti — til ad bera; þar ed allir hlutir, sem

til êru, eru, fyrir hans krapt, af eingu skapadir; já allir hlutir bædi á himni og jørdu; ecki alleinasta þeir sýniligu, heldur og þeir ósýniligu; allt hvad til er, bædi í líkamanna og andanna verøldu; allar Guds eingla herſveitir, hvørju nafni sem nefnast; hvørt sem þeir kallast trónar, þad er høfudeinglar, edur herratignir, edur høfdíngjadómar edur maktarvøld; allt er þetta fyrir Guds sonar krapt af eingu skapad, og allt skal þad þéna og þénar hønum til dýrdar, svo sem þeſs skapara. (17). Hvar af skýtur ad hann hefir tilverid, ádur enn allir hlutir tilvóru, þad er frá eilífu (Ps. 90, 2), og hann einn vidmagt heldur og stjórnar þeſsu øllusaman. (18). Þeſsi svo hátignarliga Guddóms persóna er ogsvo, eptir sínum Guddómi sameinada manndómi, høfud christiligrar kyrkju, og kyrkjan er sem hans líkami; bædi sókum þeſs, ad hann er hennar høfundur og vidhaldari, og líka þeſs, ad hún hefir af hønum allt sitt andliga líf og lífskrapt. Þar fyrir utan er hann ogsvo sá fyrsti af mønnum, sem frá daudanum er, fyrir sína upprisu, líkasem endurfæddur til óforgeingiligs lífs; þvílíks lífs, í hvørju hans manndómur lifir med hans Guddómi eilífliga. Allt til þeſs, ad hann í øllum hlutum hefdi yfirburdina, svo vel í tilliti síns manndóms yfir alla menn á jørdunni, sem í tilliti síns Guddóms yfir alla Eingla á himnum.

(19). Því Guð vildi, að í þessum sínum syni, skyldi öll fylling guddómligrar hátignar búá; sem endiliga hlaut að vera, ef Guð, fyrir hans medalgaungu, skyldi géta framkvæmt það, sem hann, öllu mannkyni til sáluhjálpar framkvæma vildi. Þar Forðursins tilgángur var sá, að hann, fyrir sonarins skuld, gjæti tekið allt mannkynið í sátt við sig. (20). Hvörja sátt hann verkaði, fyrir þá blódugu pínu, sem sonurinn, í mannkynsins stað, leið á sínum manneskjuliga líkama, á krossinum; og þar með undir eins stofnaði einslags sélag, söfnuð eður kóngsríki, ecki einúngis af Gyðíngum og heidíngjum, heldur og svo af einglum og mönnum, sem áður vegna mannanna fráfalls frá Gudi, vóru ordnir þeirra óvinir; til þess að hans sonur skyldi, og svo eptir sínum manndómi, yfir öllu þessu ríkja. (21). Og þessa sama guddómliga nádarráðs, erud þér einnig, mínir christnu brædur í Kólossaborg! hluttakandi ordnir; því áður vorud þér, eins og adrir heidíngjar frá Guds ríki útiluktir, þar alle ydar sinnislag stríddi Gudi á móti, og þér liidud af áseitu rádi í allskonar vondum verkum. (22). En nú hefir hann fyrir daudann — fyrir þann dauda, sem Christur leid á sínum manneskjuliga líkama — tekid ydur í sátt vid sjálfan sig; og med þessari sínu Fridþægíngu hefir hann géfid ydur, sem, vegna Jesú tileinkada réttlætis, erud nú álitnir heilagir og óstraffaanligir, rétt til

ad koma sjálfir, í eigin persónu (án þess nockur eingill þurfi, eptir fálspostulanna kénníngu, til med ydur ad leggja) fram fyrir Guds augliti, til ad bidja hann, í Jesú nafni, sem ydar forlíkran Fødur, hvørs þér viljid.

(23). En samt og ádur, ef þér þessum réttí ósklérdrum halda viljid, bljótid þér ad standa stødugir og óbifanligir í trúnni á Guds son Jesúm Christ, og láta einga villulærendur snúa ydur frá þeim lærdómi Evangelí, sem þér heyrdi hafid, hvør ed kénnir ydur ad vona Guds nádar einúngis fyrir Christs Fridþægíngu, og ecken annad medal; hvør nádarlærdómur nú, eptir Christs skipun, predikadur verdur øllum þjódum í heiminum, og þad án alls mismunar, hvørt þeir heidíngjar edur Gydíngar eru; og þetta Predikunarembætti, er mér, sem Jesú Postula, einkanliga á hendur falid.

(24). Ad vísu verd eg med þessu mínu embætti miklar þjáníngar ad þola, svo eg nú, fyrir þess skuld, hlýt hér í Rómaborg fángelsi og fjøtur ad lída. En samt og ádur gled eg mig í þessum mínum þjáníngum, hvørjar eg líd ydar vegna, segi eg; hvørt ed á svo ad skiljast, ad eg tek uppá mig ad lída einn part þeirra þjáníngar, sem Christs andligi líkami, nefniliga søfnudur hans truadra hér í heimi, á, eptir Guds áqvørdun ad lída, og svoleidis líd eg, þad eg líd, í annara stad, þared mínar lídanir eru

einn partur þess sem Christs kyrkja á eptir, fyrir Christs sakir, ad líða, honum til dýrdar, en sjálfri sér til besta. Til hvørs eg vissuliga skuldbundinn er, þad eg hefi seldt mig til ad vera Christs kyrkju þénari. (25). Já, í sannleika álít eg mig fyrir þénara þessarar kyrkju, vegna þess embættis, sem Gud hefir mér, medal ydar, og allra annara heidingja, á hendur falid, í krapti hvørs mér ber ad kénna Guds ord bædi afdráttarlaust og greiniliga. (26). Fyrir hvørt Gudsord eg ecki meina Moysis løgmál, heldur þann lærdóm Evangelí, út af Guds syni Jesú Christo, sem um allar umlidnar aldir, hefir øllum heimsins þjódum hulinn verid, og nú er fyrst, á þessum tíma, auglýstur þeim sem christna trú tekid hafa. (27). Því þennann leyndardóm hefir hann viljad láta þeim kunnann verda, hvørn svo margir kóngar og spámenn fordum daga fýstust ad sjá, en feingu ecki, nefniliga þann dýrdar og nádar ríkdóm Guds, sem med Evangelí lærdómi bodadur er; hvar ed skýrir frá því ljósliga, hvar not þér og allir sanntrúadir hafi af Christs komu í holdid, svo vel sem af hans pínu og dauda; meiníngin er: ad þad einúngis sé, fyrir hans Fridþægíngarskuld, ad þér hafid ad vænta nádar hjá Gudi og eilífrar sáluhjálpar. (28). Þessi Jesús, og þessi lærdómur um hann, er nú sá, sem vér bodum øllum mønnum, og leitunst vid ad uppvekja hvørn mann, hvørt hann er heid-

lægi edur Sydsingür, ædra edur lægra stands, til ad þeinkja um þennan lærdóm med allri atbygli, til ad gèta skilid hans rètta augnamid, merg og meiníngu; uppá þad vèr gjætum, ef mögu-ligt væri, gjört hvörn mann ad fullmentudum Christs Lærisveini, sem ecki láti sig afvegaleida af neinna falskènnenda tælíngum. (29). Þetta er nú, kjærir Brædur! þad augamid, sem eg këppist vid ad ná, og berst þessvegna, bædi med mínum bænum og kènníngum, gègn öllum villu-lærdómi; já eg berst med audsjáanligum Guds krapti, sem vottar sig af þeim dásemdarverkum, sem Gud fyrir mína hönd gjörir, þeim sanna lærdómi til styrkíngar, en hinum til hneckíngar.

(1 vers). En ecki vil eg, Brædur mínir, dylja ydur þess, hvörsu mikla hugsýki eg ber vegna allra þeirra safnada yfir höfud, hjá hvörjum eg hefi ecki í eigin persónu gètad verid, og þessvegna ecki færi feingid ad uppfræda þá sjálfur munnliga í Jesú Evangelío, þar eg er svo hrædd-ur um þeir afvegaleidist, med því eg veit, ad villulærendur leitast einna helst vid ad útbreida sínar falskènníngar þeirra á medal. (2 v.) Þess-vegna vil eg alla þá ástundun, sem í mínu valdi er, á þad leggja, ad þessir söfnudir ödlist sann-arligan huggunarstyrk út af Evangelío, til ad standa stödugir gègn öllum villulærdómum, midt í því ad þeirra hjörtu eru samteingd í bródur-

ligum innbyrdis kjærleika; já, ad þeir mættu komast til til þess fullkomna skilníngs og þeckíngar um Evangelí lærdóms náttúru, og þess mikla leyndardóms, sem innifalinn er í því, ad Gud Fadir sendi sinn son í heiminn, og í því ad sonurinn tók uppá sig manndómliga náttúru og leid fyrir mannkynid, kvalir og krossins dauda. (3). Í hverjum eina leyndardómsfulla lærdómi, ad fólgnir eru þeir allra dýrmætustu fjársjódir þeirrar þeckíngar, sem mönnum er naudsýnlig til sáluhjálpar.

(4). En svo eg opinskátt seigi meiníngu mína í þessu tilliti, þá er hún sú, ad vara ydur vid, ad þér ecki hér eptir látid afvegaleida ydur, af þeim raungu lærdómum, sem villukénnendur kappkosta ad innræta medal ydar, og hverjir, slóit á ad líta, sýnast hafa líkligar og ábeyriligar ástædur. (5). Því eg veit fyrir víst ad þér bíngad til hafid á réttum veigi verid; því þó eg sé fiarlægur ad líkamanum til, sie eg þó, med einslags andligri sjón, rétt eins og eg væri hjá ydur, hversu sjervallt tilgeingur medal ydar; og þad er mér ecki allítil gledi, ad eg sie ad góð skickan er á öllu í ydar söfnudi, og ad þér standid óbifanligir í trúnni á Christum. (6). Haldid nú, Brædur! þessari ydar gódu uppteckt áfram, og vardveitid ófrávíkjanliga þann lærdóm um Guds son, sem Epaphras hefir kénnt ydur. Því eg stadfesti kénníngu hans svo sem hreina og sanna í öllum

greinum. (7). Verid þessvegna, eins hér eptir sem híngad til, fastir og óhræranligir í trúnni á Drottinn Jesúm; verid honum innrættir fyrir. heitann kjærleika til hans, og uppbyggdir yfir hann fyrir gudligt líffnadarlag, samhljódandi hans Evángelío; já gjørist því leingur sem lídur, æ fastari vid hans trúarbrøgd, og látid þau vekja hjá ydur inniliga þacklátsemi vid hann, fyrir þær ómetanliga stóru velgjørdir, sem hann hefir auds ýnt ydur, hvørjar þér þeckid út af hans Evangelío.

(8). Já eg ítreka þá advørun til ydar, varist kostgjæfliga, ad einginn géti tælt ydur edur fángad, med þeirri svokølludu heimsspeki, sem ei er nema tómar heilagrillur, og á eingum røkum bygd, nema annadhvørt á innbirlíngu sérviturra manna (hvad þá hjátrúarfullu Eingladýrdkun snertir) hvørjir ed vilja adrir trúi blindt kénníngu sinni, hvørnig sem hún svo er, edur hún er bygd á því levitiska løgmáli, vid hvørt þeir vilja láta menn enn nú fast halda; hvørs setníngar þó ecki var ad álíta ødruvísi, enn svo sem þad fyrsta stafrof, til þess fullkomnara gudliga lærdóms í Evangelío, svo þess setníngar géta þá einganveiginn samþýdst Christis trúarlærdómi, heldur hljóta af hans játendum hreint fyrir ódal leggjast. Því eptir þessara Gydínga spekínga kénníngu, á nád Guds ecki ad fást einúngis fyrir Christis sakir, heldur fyrir milli-

gaungu Einglanna og vardveitslu hinfra setníngar Móyses lögmáls. (9). En haldid, Brædur mínir! þetta fyrir hinn stærsta villulærdóm; því fyrir eingis annars medalgaungu, og fyrir eckert annad medal verdur Guds nád feinginn, nema eins-kostar fyrir Jesúm Christ. Því líka sem í hans uppátekna manndómi bór sá ædsti guddómur, eins og í sínu musteri, ecki í einslags fyrirmindun, eins og fordum í musteri Salómónis, heldur í sannri raun og veru; (10) svo verdid þér, sem á hann trúid, og erud svo gott sem eitt med hönum, á vissan hátt, uppfylltir med Guds snúd, fyrir hans sakir, hver ad er yfirherra og kóngur sjálfra hösudeinglanna og himneskra maktarvalda, svo þér hvörki þurfid né meigid nockra hjálp edur medaldaungu hjá Gudi til þeirra sækja. Jesús Christur einn er ydur, í því tilliti, allt í öllu. (11). Sama er ad seigja um Ceremoniu-lögmál Gydínganna, ad á þess haldi rídur ydur nú alls eckert framar. Því, til dæmis, í tilliti umskurnarinnar, þá er þad víst, ad öll þau herligheit og gjædi, sem þeim, er eptir lögmálinu, umskornir voru, veittust, eptir Guds fyrirheitum, þau sömu hafid þér nú ödlast fyrir Christs sakir, rétt eins og þér sjálfir umskornir værud; svo þér þessvegna þurfid þeirrar líkamligu aldeilis ecki vid. Því þá umskurn hjartans, sem án mannligs tilverknadar skédur, og hvörri Móyses fordum fyrirhét Israelsfólki og nidjum þess (5 B.

30, 6) hvor ed í því falin er, ad manneskjan komist í fridar sáttmál vid lifanda Gud, og ad hennar hjartalag undireins lagist eptir Guds vilja; þessa umskurn hafid þér hlotid í Christo, þar þér erud komnir í Guds nád fyrir hann, og finnislag ydar er laust frá syndsamligra girnda yfirdrottnun. (12). Christs umskurn tilreiknast ydur því, og þér erud, fyrir hana inn geingnir sáttmála vid Gud; enn fyrir skírnina er ell Christs pína og fridþæging, med henni afrekud, ordin ydur svo eiginlig, rétt eins og þér sjálfir værud med Christo deyddir og grafnir. Þar þér erud fyrir Gudi álitnir þad sem ydar borgunar madur var í ydar stad, rétt svosem þér sjálfir hefdud lidid og dáid fyrir ydar syndir; já ecki einúngis dáid, heldúr og upp aptur risid frá daudum. Því nær þér uppstigud úr skírnarvatninu, áleit Gud ydur, eins og þér allareidu værud til eilífs lífs uppvaktir med Christo, sokum þess þér trúid þeim krapti Guds, sem uppvakti Jesúm af dauda. (13). Látid því eingan prédika ydur þad, ad ydur, sem ádur vórud heidíngjar, heyri ecki þessi stóri Christs velgjörníngur eins vel til, sem Gydíngum. Jú vissuliga heyrir hann ydur til; því þó þér ádur, vegna ydar heidindóms synda, og sokum þess þér vórud óumskornir, ecki heyrdud því svo kallada Guds fólki til og lævd undir Guds réttlætis daudadómi, þá hefir þó Gud ydur nú frá þeim dómi lausa gefid, og til eilífs lífs lík

sem með Christo uppbakið, þegar hann, vegna yðar trúar á hans friðþægíngu, fyrirgaf yður, eins og oss, sem út af Gyðíngum erum kristnir orðnir, allar yðar syndir. (14). Því þó vér Gyðíngar Guðs fólk værum, höfðum vér þó í lögmálinu sífelldan áklagara gégn oss, vegna vorra synda; því þar sem vér eptir þess skipun, hlutum sífeldt að offra fyrir syndir vorar, þá var rétt sem vér með því játuðum uppá oss dauðasök fyrir Guði, og undirskrifuðum handskrift eður skuldabréf móti sjálfum oss. Þessi handskrift var innifalin í lögmálinu, einkum því Levitiska uppá hvört vér þó í blindni reiddum oss, og hún lá alltaf líka sem óútleyst fyrir Guði, með sínum fulla krofukrapti gégn oss, uns Christur með sinni pínu og dauða leysti hana út, og lauk Guði vor vegna, alla þá skuld, sem vér, eptir henni, áttum Guði að gjálda. Þá líka sem afmáði sjálfur Guð þessa handskrift, þegar það Levitiska fórna lögmál géck ur gildi, svo vér þá ecki leingur vorum skuldugir að dýrka Guð eptir þess reglum.

(15). Já ecki einúngis hefir Guð þetta gjört, að aftaka Ceremóníu-lögmalið, með síns sonar dauða, heldur hefir hann þar að auki, með hans upprisu frá dauðum og himnaför, sýnt að Jesús er öllum Einglum — já þeim hærstu höfuðeinglum — lángt ædri; svo þó þeir áður hafi hefði nockra makt yfir jarðríki (eins og vér Gyðíngar, þó af léttvægum ástædum, trúað höfum)

þá er það augljóst, að Guð hefir nú alla þá makt frá þeim tekið, og sínum eingétna syni afhendt, svo þeir sjálfir eru nú orðnir hans undirsátar og þénarar, eptir hans manndómi — því eptir hans Guðdómi vóru þeir það frá upphafi — þar hann, í hans upprisu og himinstigníngu, lét þá fylgja hönum, eins og sigurvegarar láta yfirunna og til fánga tekna kónga fylgja sér, í sínum sigur hróss förum.

(16). Af þessu öllu sjáið þér þá, kjærir Bræður! hvörsu þeirra sérvitru kénnenda lærdómur rángur er, sem vilja telja ydur trú um; í fyrsta máta, áð þér séuð skyldugir, enn nú að halda við Gyrkjusiða lögmál Gydínga með því að láta umskéra ydur og þvílíkt, og þarnæst að þér eigið að hafa Einglana fyrir ydar Medalgángara hjá Gudi. O látið ei þessa menn afvegaleida ydur! því þarsem Gud, eins og eg fyrir skömmu sagdi, hefir lögmálsins handskrift afmáð, og géfið oss lausa frá hennar krösu, þá skyldi einginn hér eptir vogast að fordæma ydur fyrir það, þó þér ecki haldið framar uppá þess setnínga, til dæmis: þó þér ecki fordist að eta og drecka, það sem í lögmálinu ádur fyrirbodið var, þó þér ecki framar haldið heilagt á þeim gömlu Gydínga hátídum, túnglkomudögum og jafnvel ecki á sjálfum þeim sjöunda deigi vikunnar. (17). Því allir þessir lögmáls setníngar voru ecki nema skuggar og fyrir-

mindir, þess er á eptir skê skyldi, en uppfyllíng allra þeirra er framkomin í Christo. Þessvegna er þad eins fávíslígt hér eptir vid þær ad halda sem ad elta skuggann, eptir mádur hefir sjálfan líkamann í höndur feingid. (18). En eingú betri, ef ecki enn nú skadligri, er þó hin villulærdóms teg-undin, til hvörrar þeir vilja telja ydur, sem for-dæma ydur og álíta eilífs sæluhuoss ómakliga, fyrir þad þér ecki, eins og þeir, tilbidja viljid Einglana, sem ydar Medalgángara ásamt Christo. Þessir menn, sem halda svo mikid uppá, ad aud-mýkja sjálfa sig, med vintíngu líkama síns, svo-vel sem uppá tilbeidslu Einglanna, hafa þann búrdkunarmáta fyrir sig tekid, sem þeir hafa einga reksemd né ástædur til; en midt í því þeir látast sem allra audmjúkastir vera, og rétt eingilligu sinni gjæddir, eru þeir heimskuliga stoltir, út af þessum sínum dárligu grillum, þar þeir fordæma alla þá, sem ei vilja med þeim á þær fallast. (19). Þvílíkar manneskjur halda ecki vid Christs lærdóm, eiga og ecki heldur neitt skildt vid hans sanna söfnud, hvörs höfud og yfirherra hann er. Því þad er audkénni allra hans sönnu safnadar líma, ad þeir halda sig til einkis annars, svosem medalgángara milli sín og Guds, enn hans, svo trúin og kjærleikurinn til hans samanbindur þá svo vid hann, og sjálfa þá innbyrdis, eins og limirnir á einum líkama eru samteingdir vid sitt höfud, svo þeir vaxa og þróast í hans þeckíngu

og náð dagliga, og verða svo Guði þócknanligir fyrir hans forþénustu.

(20) Þar fyrir, Bræður mínir, ef þér trúið því, að dauði Christi sé ydur af Guði svo tilreiknaður, líka sem þér sjálfir með Christo dáið hefðuð fyrir ydar syndar, svo það Levitiska lögmál sérk lagi kunni nú ecki framar að skuldbinda ydar, heldur enn nockur lög géta dauðan man skuldbunðið, þá spyr eg ydur að: hvörnig kémur það til, að nockrir á meðal ydar, nefniliga þeir sem áður hafa Gyðíngar verið, breita þó, eins og þér ecki með Christo dánir væruð, heldur lifðuð enn nú í þeim heimi, hvar þvílíkt lögmál í gildi sé; sem þó var, eins og eg hefi áður sagt, svo sem barna stafrof fyrir Gyðíngana, meðan sá fullkomni Evangelí Lærdómur ecki var innleiddur. Já, ecki einúngis hafið þér látið ydur á tálar draga, til að halda við sjálfa Ceremoníu-lögmáls setningana, heldur þar á ofan til að gángast undir aðra enn nú heimskuligri, bæði í tilliti Einglaðýrðunarinnar, og ýmisligra sjálfspintinga, sem í öllu tilliti ecki eru nema eintómar mannasmíðar; rétt eins og þér enn nú skylduð lifa, sem áður, í heiðíngligri hjátrúar villu.

(21). Eg tek til dæmis; nær þeir forbjóða ydur, auk þess sem hið gamla levitiska lögmál bannar: haltú þér frá Egtaskap; bergdú ecki á þeirri edur þeirri fæðu; snertú ecki þennan edur hinn hlut! (22). Því þér skuluð vita, að allt þvílíkt

er ecki nema til einberrar spillíngar ydar christindómi, þegar þér hlýdid þessum manna setníngum, í þeim tilgángi, ad þér álítid þeirra hlýdni naudsynliga til sáluhjálpar. Þar med dragist þér æ leingra frá Christo og trúnni á hann og hans fridþægíngu. (23). Eg játa ad vísu, ad sumir þeirra lærdómar hafa skin af gudligum vísdómi; þar þad heitir fyrst og fremst, sem þad votti enn nú stærri audmýkt fyrir Gudi, ad dyrfast ecki ad koma fram fyrir hans augliti í sínu bæna ákalli sjálfur, heldur bidja Einglana, sem sér heilagri og Gudi þoknanligri, ad gánga milli sín og hans, og þarnæst syni þad enn stærri sjálfsafneitun, enn Postulanna lærdómur býdur, ad plága og pinta líkama sinn, svo vondar girndir ecki í hönum uppkveikist. En af því þessar reglur eru þó allt eintómar mannasmídar, og til þeirra finst hvergi minsta spor í Jesú lærdómi, sem ei bannar ad veita líkamanum sómasamliga rækt og næra hann eptir þorfum, þá eru allar þessar sérvitskureglur bædi skadligar og skúfunarverdar, allra helst þar menn vilja telja sér hald þeirra til gildis í Guds augum.

## Þridji Hofudpartur Brefsins, sem inniheldur áminníngar til gudligs sinnis og lifnadar lags.

(1 v.) Takid nú samt, gódir Brædur! ecki svoleidis ord mín, sem eg á nockurn hátt vilji

mæla fram með holdligu líferni, þó eg þennan lærdóm, er svo síðavandur sýnist, fordæmi. Fiærri því! því einmidt fyrir þá sök, að lærdómur þessi dregur hjörtun frá Gudi, og hans réttu dýrdkun, sem, eptir Christs lærdómi, á að ské í anda og sannleika, en setur fáfeingiliga mannasetnínga aptur í hennar stað, fordæmi eg þá. Ney! eg áminni ydur alvarliga, að þar sem þér, eins og eg hefi ádur sagt, erud af dauda upprísnir med Christo, svo þér þessvegna hafid rétt til þess eilífa himneska lífs, svo leitid þá af öllu hjarta og öllu framar, eptir þeim hlutum, sem tilheyra slíku himnesku lífi, í hvörju sjálfur Christur, ydur höfud og medalgángari, lifir til Guds hægri handar; það er: nýtur, eptir sínum manndómi, sömu dýrdar, sem hans Guddómur í frá eilífu haft hefir. (2 v.) Æ já, mínir elskanligu! látid allt ydar hjarta og hug hneigast til þeirra himnesku hluta, en ecki ofmjög festast vid þá jardnesku, sem forgeingiligir eru, allra sídst vid lesti og ódygdir, hvörjar þér eigid sem höggorm um að flýa Alltíd ecki heldur gudligt sinnislag innifalid vera í haldi Levitisku setnínganna, og sídst þeirri hjátrúarfullu eingla tilbeidslu og líkama pintíngum. (3). Þér erud og eigid ad vera frá öllu þessu daudir, þar ed Christur dó fyrir ydur. En það líf sem þér nú hafid í ydur, er andligt líf í trúnni á Drottinn Jesúm, já uppbyrjun eilífs lífs í sálum ydar. Þetta ydar líf er ecki sýniligt fyrir manna

augum, heldur er það hulið í Guðs fyrirhugudu ráði; ja það er hulið eins og Christur er hulinn, og mönnum ósýniligur til Guðs hægri handar. (4). En þegar Christur, hvör að er þessa vors lífs uppruni, og hösundur, loksins opinberast sjálfur á síðarsta deigi, þá muuuð þér og svo opinberir verða; það er allir munu þá sjá, í hvörju ydar andliga líf, hvörju þér hér í heimi lífdud, fólgid var, og hvad gott af því lífi flýtur, nær ydar daudlegi og vesæli líkami gjörist ódaudligur og dýrdligur. (5) Nú med því þér, eins og eg hefi ádur sagt, erud med Christo daudir, edur eptir Guds dómi svoleidis álitnir, sem sjálfir þér, hefdud daudastraff fyrir syndir ydar útstadid, þá erud þér, í tilliti syndsamligs lifnadar, skyldugir ad sýna ydur, eins og þér daudir værud. Meidid þarfyrir og deydid þesshattar limu á líkama syndarinnar, sem þessari jördu einúngis tilheyra, og aldeilis ecki munu fylgja ydar forklárada líkama inní eilífdina; ecki meina eg til limanna á ydar náttúrliga líkama (því hann á upp aptur ad rísa og forklárast, ad þér skulud þá, eins og villulærendur predika ydur, pína og daudkvelja) heldur á eg vid syndugar girndir í sálu ydar, þær skulud þér vægdarlaust nidurdempa, og þeirra ávexti, ósæmiligt líferni, hreint eydileggja og uppræta, til dæmis: hórdóma, saurlífi, og allskyns hauda lauslætis tegundir, og sérílagi þá óseðjanligu munadargrædgi, sem heidíngjar æsa í sínum goda

dýrdkunar og blótveitslum. (6) Því þesslags syndir eru það, með hvörjum þeir vantúudu (nefniliga heidíngjar, jafnvel ogsvo Gydíngar, sem líkan lifnad elska, já enda þó þeir Christnir kallist) draga yfir sig reidi Guds og þúnga strefunar dóma. (7). Þvílíkar manneskjur vórud þér og svo til forna, ádur enn þér christnudust, og þér lifdud í þeskonar glæpum, enn daudi Christs vard ydur svo tilreiknadur, ad þer álitust af Gudi, svo sem þér hefdud fyrir ydar syndir sjálfir dáid. (8). En nú med því þetta skéd er, hljótid þér ad taka fyrir ydur, nýan lifnadarmáta, svo þad sjáist, ad þér lifid nú ødru lífi enn fyrr. Leggid þarfyrir hreint frá ydur allt þvílíkt athæfi, til dæmis: reidi, grimd, illsku og girnd til ad gjøra ødrum skada. Haldid ydar munni frá ad spotta adra edur rógbera, líkasvo frá øllu klámligu og svívirdligu ordlagi. (9). Ljúgid ekki hvør ad ødrum, né hvør uppá annan; já leggid allan þann gamla lífnadarhátt frá ydur, og hættid ad vera þær sømu manneskjur, sem til forna, edur framgánga í því athæfi, sem þér þá geingud. (10). Gjørist þvert á móti eldúngis nýar manneskjur, já þvílíkar, sem, fyrir Guds og Frelsarans Jesú rétta þeckíngu, umbreitast til ad verda í hugarfari og hegdun líkir ydar skapara, eptir hvørs mind manneskjan í øndverdu skøpud var. (11). Nær þetta skédur, þá vitid fyrir víst, ad Gud ser í ekkert manngreinarálit,

hvør í hlut á, hvørt sá sami, ádur enn hann christnadist, var Gydíngur edur heidíngi, umskorinn edur óumskorinn, einn af þeim betur sidudu edur villtu þjódum; já hvørt heldur hann er einn af þræla standinu, edur hann er friáls madur; heldur verda allir þeir sem trúna á Jesúm medtaka, nýan gudligan lifnad rækja, af Gudi gódúngis jafnmetnir; já þeir verda svo álitnir, sem þeir væru ein persóna med sjálfum Christo, og hafa þessvegna, fyrir Christis sakir, jafnan rétt til allra þeirra gjæda, sem í Christis kyrkju heima eiga.

(12). Skrýdist þá, mínir Brædur! skrýdist dygdum þeim, sem bædi audkénna ydur og sæma, sem þeim er Gud útvalid hefir, og skástkildir vera eiga ødrum ad lifnadarlagi, svo sem Guds elskulig Børn. En fyrir þvílíkar dygdir meina eg einkanliga hjartagróna miskunsemi, manngiædsku, audmýkt, hógværd og lánglundargéd. (13). Umlídid þessvegna hvør annan, nær einum ysirsjest, og syrirgéfid hvør ødrum, þegar einn hefir nockud móti ødrum ad kjæra. Minnist þess, ad Christur hefir svo mikid fyrirgéfid ydur; fylgid þessvegna hans eptirdæmi. (14). En umfram allt, audsýnid sannan kjærleika til allra ydar samchristinna brædra; því kjærleikurinn er fullkomleikans band, med hvørju allur Christis líkami, þad er hans kyrkja, skal líka sem samtbundin vera, til ad koma í veg fyrir alla flockadrætti og meiníngaþrætur

(15). Já, í einu ordi sjáid til, ad sá fridur sem Gud hefir, fyrir Christs medalgaungu, samid, ei ad eins millum sín og ydar, heldur ogsvo millum Gydínga og heidíngja, hafi, i øllum tilfellum, hvad sem ydur mætir ad giøra edur lída, yfirhøndina í ydar hjørtum. Því bædi til ad njóta þess fridar, og efla hann, med kjærleiksfullum ordum og verkum, medal annara, erud þér af Gudi kalladir, þegar þér medtókud christna trú, og urdud, ásamt, sannchristnum Gydíngum, einn Guds søfnudur. Audsýnid ydur, þessvegna, fyrir slíka fridargjøf, Gudi þacklæta, med ad vera prýddir ádurføgdu hugarfari og lifnadarlagi. (16). En framar áminni eg ydur um, ad þér giørid Christs trúar lærdóm ydur inniliga handgenginn, og ad þér mjøg ydugliga um hann þeinkid og talid, svo þér komist til þess fullkomnasta skilníngs í hønum, sem møguligt er. Uppfrædid hver annan og uppvekid á allan hátt, og brúkid til þess, med ødru, þá sálma og lofkvædi, sem Guds andi hefir þeirra høfundum í brjóst blásid. Og þó þér ecki alltid sýngid Gudi lof med munninum, þá giørid þad eingu ad sídur med allri andagt í ydar hjørtum, en látid hjartans lofgjørd alltíd fylgja munnsins ordum. (17). Í einu ordi ad seigja: allt hvad þér takid ydur fyrir hendur ad giøra, hvørt þad er til orda edur verka, þá hafid Jesúm sífeldt í huga; hans ord og eptirdæmi til ad breita eptir, og hans frid-

þægíngu til ad byggia á henni ydar traust til lifanda Guds; og verid þacklátir vid Gud, ydar allrahærsta Fødur, fyrir allt þad góda, sem hann ydur til lífs og sálar audsýndt hefir; og bidjid Jesúm, sem ydar medalgángara, ad gjøra slíkt þacklæti ydar, med sínu árnadarordi, Gudi gédfeldt og þocknanligt. Þetta sé þá nóg sagt um ydar Christindóms skyldu yfir høfud.

(18). Nú þar sem Christs lærdómur hvørki fyrirbýdur hjónabønd (eins og sumir villulærendur medal ydar gjøra) fordæmir ei heldur, þó einn christinn haldi annan christinn fyrir sinn þræl edur þénara, einúngis áminnir, ad hvør einn í sínu standi hegdi sér christliga, þá vil eg hér med géfa ydur, mínir kjærir Brædur! nockrar lifnadarreglur þessu ad lútandi.

Þér Egtakvinnur, sem christnar erud, verid ydar Egtamønnum, hvørt sem þeir christnir edur heidnir eru, undirgéfnar, rétt eins og sambýdur þeim christligu trúarbrøgdum, og minnist þess bodords, sem Gud Drottinn í øndverdu setti ydur, í persónu vorrar fyrstu módur, er hann sagdi: þinn vilji skal vera þínum manni undirgéfinn, og hann skal vera þinn herra!

(19). Eins skulud þér Egtamenn breita á ydar sídu, eins og sannchristnum sæmir, og misbrúka ecki myndugleika ydar, yfir konum ydar, heldur sýna þeim innliga ást og kjærleika, en aldeilis

ecki vera stríðir né beisklundadir vid þær. (20). Þér Børn verid hlýdin Foreldrum ydar, í øllum gódum hlutum, því þad er Guds vilji, svo sem ydur af sjórda bodordinu kunnugt er, og Gud vill af náð sinni umbuna hlýdni vid Foreldrana. (21). Ydur Foreldra áminni eg, ad þér breitid línkindarliga vid børn ydar, og haldid ecki, ad ydur leisist ad fara med þau, hvørnig sem þér viljid. Ergid þau þessvegna ecki med of frekum og óskinsamligum aga, svo ecki komi í þau annadhvørt kérgja og þrá, edur verdi aldeilis einurdarog kjarklaus af hrædslu vid ydur, því þá gétid þér litlu gódu til vegar vid þau komid. (22). Þér sem í þénara edur þræla standi erud, ydur áminni eg, ad þér séud hús-bændum ydar og herrum, sem ráda eiga yfir ydar jardneskum kjørum í þessu lífi, hlýdugir í øllum greinum, sem ecki eru Gudi ámóti verid ecki alleinasta ydnir og þénustuviljugir, þegar þeir sjá til ydar, til þess ad ávinna hylli þeirra, sem manneskja, heldur verid þeim allt eins trúir undan augunum, af hreinskilnu hjarta, og af ótta fyrir Gudi, sem allstadar er nálægur. (23). Gjørid allt hvad þér eigid ad vinna, med súsum og frómlyndum huga, allt eins og þér ecki værud ad þjóna mønnum, heldur sjálfum Drottni. (24). Og huggid ydur vid þad, ad þó þér ecki alltíd ødlist í þessu lífi, þau laun, sem makligt er, fyrir ydar erfidi, né hafid hér heimi, eptir

heidnum lögum, ad vænta nockurs erfdahluta, edur óhöfkulls eigindóms, þá mun sjálfur Drottinn umbuna ydur þad, og géfa ydur eilífan arf og fasta eign á landi lifendra. Því í rauninni er því svo varid, ad þér í ydar standi, svo audvirdiligt sem þad fyrir mønnum sýnist, þjónid þó, jafnvel med ydar líkamliga erfidi, sjálfum Herranum Christo. (25). En ef þér breitid óráðvandliga vid ydar húsbændur, hvørt þeir heidnir edur Christnir eru, þá skulud þér vita, ad Drottinn straffar ydur fyrir þad. Því hjá hønum er eckert manngreinarálit; hann straffar alls eins þann óráðvanda þjón, eins og þann ósanngjarna húsbónda; því hann hlýfir ecki framar þeim vesæla enn volduga, ef bádir breita eins, á sinn hátt, óvidurkvæmiliga. (26). Þar á móti skulud þér, sem húsbændur erud breita vid þjóna ydar og þræla, svo sem ydar medmanneskjur, og audsýnid þeim þann sama rétt og jøfnud, sem þér viljid af þeim hafa; og hugsid til ad þér ogsvo hafid ein herra yfir ydur á himnum uppi, og gjørid þessvegna svoleidis vid hjú ydar, sem þér viljid Gud á sídan vid ydur gjøri.

(1 vers). En til þess, Brædur mínir! ad þér gétid þessu christiliga hugarfari og lifnadarlagi vid hjá ydur haldid, þá legg eg ydur þad sama rád, sem Jesús fordum lagdi sínum lærisveinum: »vakid og bidjid svo þér fallid ecki í

freistni," sagdi hann; svo seigi eg: verid stad-fastir og óbreytanligir í því ad æfa rétta bæn til. Guds nefniliga í því ad bidja um hans anda og nád, ad þér gétid í því uppbyrjada góda stødugir stadid, iá, tekid dagliga framförum! Þó verdur þeirri bæn ydar, ef hún skal áheyrslu hiá Gudi fá, og'vo ad fylgja vaka frá ydar sídu; þad er, þér verdid siálfir, trúliga ad taka ydur vara fyrir øllu því er ydar vill freista, hvørt heldur til fráfalls frá trúnni, hyrduleysis í bæninni, edur vanrækter christiligs lifnadar. Þegar nú Gud bænheyrir ydur um þetta, sem víst mun verda, ef þér svoleidis breitid, þá gleymid ecki ad þacka Gudi af hiarta fyrir bænheyrsluna. (2). En midt í því, minir Elskanligir! ad þér í þessu ydar ødru tilliti, framberid ydar bænir fyrir Gudi, þá ýska eg innilega, ad þér minnist, og svo ad bidja fyrir oss, ad Gud virdist ad opna svo hiørtu mannanna, bædi hér í Rómaborg og annarstadar, ad kénning vor út af Jesú, um hans Guddóm og fridþægíngu, géti hiá þeim inngang fengid; fyrir hvørrar kénníngar skuld, eg er nú í fángahaldi. (3). En bidjid þér Gud fyrir mér, ad hann gefi mér visdóm og dierfúngu, til ad segja þennan lærdóm mønnunum svoleidis fyrir sjónir, sem vera ber og mín skylda útkrefur. (4). Gangid mikid varasamliga til verks, nær þér talid vid heidingiana, medal hvørra þér búid, um Jesú Christs trúarbrøgd. Brúkid vís-

dóm og forsjálni í allri ydar umgeingni med þeim sem ecki heyra til vorum christna søfnudi. Veljid þá hentugustu tíd til ad tala vid þá um trúarbrøgdin, nefniliga þegar þér álítid þá hæfasta móti því tali ad taka. (5). Varid ydur, ad þér ecki med strídum ordum fælid þá frá ydur, heldur leggid alla ástundun á, ad láta tal ydar allttd vera vingjarnligt og þægiligt, en þar hjá skinsamligt, svo þad auki ecki ødrum viddjód né leidindi. Gefid jafnan gjætur ad ástandi þeirra, sem þér eigid málstad vid, svo þér kunnid ad svara hvørjum á þann hátt, sem best hentar hans uppløsingu og gedlagi.

## Fjórdi Høfudpartur Bréssins, edur þess Nidurlag.

(6). Hvørnig mér nú í øllu tilliti lídur, mun Tychicus greiniliga skíra ydur frá, sem er elskuverdugur sannchristinn-bródir, og trúlyndur samþjón í Evangelí útbreidslu-verki, já minn sannur medersidari. (7). Þetta góda álit, sem eg á honum hefi, hefir komid mér til ad senda hann til ydar, til þess ad hann nákvæmliga rannsaki, hvørnin í ydar søfnudi tilgeingur, og undirreins hughreysti ydur med þeim sanna Evangelí Lærdómi, svo ydur ecki fallist hugur út af því, sem falskennendurnir prédika, sem vilja gjøra ydur efablandna um ydar sáluhjálp, ef þér ecki,

eptir sem ádur er saat, falliſt á þeirra meiníngar. (8). Med þeſsum góda manni Tychico, er og ſvo í sör Onesimus, vor sannchriſtinn elſkuligur medbródir, hvor þar ad auki er ydar landsmadur, ſvo þeſsir menn géta bádir gloggliga ſkírt ydur frá, hvorſu hér í Róm ſyrir oss áſtadt er.

(9). Ydur bidur ad heilſa Ariſtarcus, sem er fángi áſamt mér, og Marcus ſyſkynabarn vid Barnabam; um hvorn eg er búinn ad ſkrifa ydur fyrir nockru minn vilja; og vid þad ſtendur, ad eins bid eg, ef hann kémur til ydar, ad þér takit vel á móti honum. (10) Somuleidis bidur ad heilſa Jesús auknefndur Júſtus; hvorjir þrír menn eru allir Gydíngakyns; enda líka eru þeir hinir einuſtu, af því tólki, sem erfida hér med mér, til Guds ríkis útbreidſlu; þeir hafa ogſvo verid mér til mikillrar hughreyſtíngar. (11). Líka ſvo bidur Epaphras Landsmadur ydar og lærifadir í Jesú trúarbrogdum, ad bera ydur kvedju ſína. Þeſsi madur bidur heitt og óaflátanliga fyrir ydur, ad Gud hiálpi ydur til þeſs, ad ſtanda ſtodugir vid þann lærdóm, ſem hann ydur kénnt hefir, ad þér, fyrir fullkomna þeckíngu og sannſæríngu um giorvallt Guds nádar rád í Christo, megnid ollum villulærenda lærdóms vopnum móti ad ſtanda, og frá ydur hrinda. (12). Því eg má bera honum þann vitnisburd, ad honum er alvarliga umhugad um ydur, ſvovel ſem þá chriſtnu í Laodicea og Hieropolis; og hann mundi eckert ſárara taka, en ef einhvor ſkyldi géta ſnúid ydur frá þeim hreina lærdómi, ſem hann ydur kénnt hefir. (13). Læknirinn Lúcas, hvorn eg mikiliga elſka, ſvovel ſem Demas, bidja og ſvo ad heilſa ydur.

(14). Heilſid þér frá oss þeim Chriſtnu í

Laodicea, einkum hønum Nymphaſt, og þeim ſøfnudi Chriſtinna, ſem heldur ſínar ſamkomur í hans húſi.

(15) Undir eins og þetta mitt bréf heſir opinberliga hjá ydur leſid verid, þá berid um orgun fyrir því, ad þad verdi ogſvo leſid fyrir ſøfnudinum, ſem er í Laodicea. Fáid ogſvo þad bréf til ad leſa, ſem þeir í Laodicea ſkrifudu mér til, nyvá hvørt ad þetta mitt bréf er ſvo ſem andſvar; ſvo þér getid ſkilid þeſs betur, hvøriar perſónur og kríngumſtædur þad eru, ſem eg meina til í þeſſu bréfi.

(16). Seigid Archippo, undir mínu nafni, ad hann ræki ſem allra trúligaſt embætti þad, ſem hønum er í Chriſts kyrkju á hendur falid; og ad hann leitiſt alvarliga vid ad uppfylla ſínar embættis ſkyldur.

(17). Eg Paulus, ſem látid heſi einn annan ſkrifa eptir mér bréf þetta, ſkrifa nú ſjálfur þá ſìdurſtu kvedju og undirſkrift þeſs, med minni eigin, ydur þeckianligu, hendi, ſvo þér ſkulud þeſs fullviſſari vera um, ad þad er frá mér, en eingum ødrum. Æ minniſt þeſs ad eg er bandíngi fyrir Jeſú Chriſts ſakir!

Nád Guds og Jeſú Chriſts, ſé med ydur øllum, brædur mínir, tímanliga og eilífliga! Amen!

---

# Til eptirþánka.

Þau chriſtnu trúarbrøgd innilykjaſt í tveimur atridum. Þad ſyrra atridi ſýnir oſs, hvad Gud hafi ad verkum gjørdt, til ad frelſa mennina

þad sídara, hvad mennirnir eigi ad gjøra og adhafast til ad þéknast Gudi. Þad fyrra atridid er Christindómsins eiginliga adalatridi, sem adgreinir hann frá øllum ødrum trúarbrøgdum; því þar eru einain þau trúarbrøgd til, hvad villt sem eru, sem ecki hafi einhverja fagra dygdalærdóma sér samanblandada. Øll ønnur trúarbrøgd, kénna hvørnig manneskjur géti hólpnar ordid, fyrir sín eigin verk, sem þær gjora Gudi til þægdar; en vor trúarbrøgd kénna, hvørnig manneskjur hjálpast skuli fyrir þad, sem hann, af kjærleika, gjørdt hefir vid manneskjurnar. Þessvegna er rángt ad standa á því, ad dygdalærdómurinn sé trúarbragdanna grundvøllur. Vor sáluhjálp, sem er trúarbragdanna eiginligasta augnamid, er bygd á því góda, sem Gud hefir gjørt vid oss, en ecki á því góda, sem vér gjørum fyrir Gudi; hvar af flýtur, ad sidalærdómurinn er ei undirstada Christindómsins, heldur yfirbygging undirstødunnar, hvør undirstada ad er: Lærdómur Trúarinnar á Christs Fridþægíngu. Án þess þad fyrra atridi, um trúna, gángi því á undan, í christiligri kénníngu, er hid sídara atridi, nefnil. dygdarlærdómurinn, eintómt myrkur og heidni.

J. Despage.

Þessum kénníngar máta (ad láta nefnil. trúna gánga á undan verkunum, fylgir Postulinn Paulus, svo vel í sínu framanskrifadi sendibréfi, sem øllum ødrum, og svo ber øllum Christnum kénnendum ad gjøra.

---

Kaupmannahøfn 1821.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.